# Æfi og Minning
Há-Edla og Velburdugs
Herra
# Magnusar Gislasonar,
Amtmans á Islande,
Samt
Hans Há-Edla og Velburdugu
Ekta-Husfruar
# Þorunnar Gudmundsdottur,
af
fleirum yfervegud,
og
nu á Prent utgeingenn
ad Forlæge
Há-Edla og Velburdugs
Herra
## Olafs Stephanssonar,
Amtmans yfer Nordur- og Austur-Amtenu á Islande.

---

Kaupmannahøfn 1778.
Prentad hiá Bokþrykkiara A. F. Stein.

MN.

[illegible]

# Æfi
## Sal. Hr. Amtmansens
# Magnusar Gislasonar.

Hann er fæddur i þennann Heim á Reikhólum i Bardastrandar Syslu, siálfann Michels Dag, Anno 1704, og samdægres fyrer H. Skirn innplantadur þvi sanna Liffsens Trie Christo: A siuu 3 Aldurs Aare miste Hann bæde Ommu sina og Módur, i þeirre so kølludu Stóru Bólu, enn uppólst sidann i Fødur Húsum þar til Hann var 7 Aara, þóknadest þá Gude eirnenn ad burtkalla Hanns hiartkiæra Fødur, enn let Hann þó þar fyrer ei munadarlausann, þar Hann siálfur gieck Hønum ei einasta i Foreldra Stad, og bar alltid hina náqvæmustu Ummhyggiu fyrir Hønum, sem þeim er Hann vilde bruka ser til Dyrdar, og Fødurlandenu framm veges til Adstodar, heldur efterlet Hønum þá Náunga, sem bæde Efne og Vilia høfdu ad frammhiálpa þeim støru Náturu Dygdum og Gáfum, er strax á unga Aldre sig hiá Hønum i lióse letu. Hanns Fødurbróder, Sal. Prófasturenu Sr. Þórdur Jónsson á Stadastad

tók Hann því til sín 7 Aara gamlann, at læra i Latinu, hvar Hann uppólst i 3 Aar; þadánn veik Hann 10 Aara gamall til Hr. Biskupsens Jóns Widalins, og sinnar elskulegu Fødur-Systur, Frur Sigridar Jóns-Dóttur, i Skálhollt, hvar Hann lagde gódann Grundvøll til síns Lærdoms og Menta, under Uminsjón og Uppfræding siálfs Hr. Biskupsens, sem hafde þad fyrer Ynde og Dægra-Stytting, þá Hanns Embættes Erinde leyfdu ad uppfræda þetta miked skarpa og gáfada Ungmenne, hvor eirnenn heitt elskade Hann, og á deyanda dege skriflega beidde sína efterlátna Fru ad adstoda Hann, tilgetande, Hann munde verda mikell madur, og Landenu til stórrar Æru. Þó brúkade Biskupenn þess imillum adra til ad informera Hann, sierdeiles þá 2 lærdu Menn, som báder urdu sídann Skólans Rectores, Sr. Erlend Sal. Magnusson, og Mag. Jon Sal. Þorkelsson, sem á þeim Aarum voru Exercitiarii i Skálhollte, under hvørra Tilsøgn Hønum so frammfór, ad Anno 1719 var Hann settur i Skálholts Skóla, hvadann Hann ad 2 Aara freste, Anno 1721, var med þá verande Stiftesens Officialis, Profastens i Myra Syslu Sr. Jóns Haldorssonar Samþycke, af Velnefndum Skólameistaranum Erlende Magnussyne med gódum Vitnesburde, 17 Aara gamall, dimitteradur. Uum Hausted 1721, sette Hans Fødur-Syster Sal. Fru Sigridur Jónsdóttur, Hann til frekare Menta og Lærdóms Idkana vestur ad Hytárdal, under uppfræding þess lærda Manns Profastsens Sal. Sr. Jóns Haldórssonar, hvar Hann dvalde þann, og og næstkomande Vetur, inntil umm Vored 1723. Þad Sumar ætlade Hann ad reisa til Háskólnas i Kaupenhavn, enn þad bar undan, þviad Eyrarbacka Skip, med hveriu Hann sigla ætlade, strandade umm Hausted á Høfnenne, so Hann sat komande Vetur á Stóra Núpe, hiá fyrnefndre Sinne hiartkiæru Fødur-Systur.

1724

1724 kom Hann sem Student til Kaupenhavnar Háskóla, hvar Hann tók stædstu Framm-förum, og lagde sig efter adskillianlegum Fródleik i 5 Aar, svasem Hønum meddeilt sierdeiles gott Attest af Sal. Etats-Raad Gram útvísar. Veik Han þá aftur til Islands 1729, 25 Aara gamall, i afhalde hiá øllum utanlands og innann, er til Hans þektu. Þegar hann þannenn innan og utanlands, bæde framid sig og underbuid til ad þiena synu Fødurlande i publiqve Embættum, finnum Ver ad Hann under þeim 3ur Hædstsálugu Kóngum, Friderich 4da, Christian 6ta og Friderich 5ta, hálofslegrar Minningar, hefur stigid líka sem umm 3 Trøppur, til þeirrar Æru og Verdugheita er þeir Hann isettu, umm eina under hverium þeirra, þvi fyrst var Hann af Kong Friderich 4da allranádugast skipadur til ad vera Landþingsskrifare hier á Lande, Aar 1728, þá Han var 24 Aara gamall, komst Han þá ei til Islands þad Sumar, vegna Hans Bestallingar seirnrar Utkomu, sem daterud er i Glúckstad, þann 9 Julii sama Aar, hveriu Embætte Hann þarefter þienade i 3 Aar, til allra Vidkomenda Anægiu; þarefter var Hann 1732 af Kong Christian 6ta, allranádugast beskickadur til ad vera Løgmadur Sunnann og Austann á Islande, hveriu Embætte Hann þienade til 1757, alls 25 Aar. Þaug seinustu 5 Aarenn i Hanns Løgmanns Þienustu Tijd, var Hønum allranádugast þarmed gefin Amtmans Nafnbot hier á Lande. Aar 1757 var Han af þeim 3ia Kónge, nefnelega vorum ódaudlega Kong Friderich 5ta, hálofslegrar Minningar, kiørenn og kalladur til ad vera virkelegur Amtmadur yfer Islande, til hvers vandasama og vidtløftiga Embættes, Hann efter allra Medkienningu, var og af øllum Innlendum best fallenn, hveriu Embætte Hann efter ádursøgdu, fyrst Þienade sem constitueradur Amtmadur 5 Aar, og sídann sem virkelegur 9 Aar, tilsamans 14 Aar, med soddann Heidre, ad bæde Hanns Kongl. Majt. og aller

ødrer Hanns Yfirmenn utanlands, hafa ei einasta vered þar med vel á-nægder, heldur þá Hann 60 Aara gamall reiste til Kaupenhavnar 1763, vegna Landsens Naudsynia, var Hønum af Hanns Majt. og Hanns háu Rádgiøfum, ja, og af framande Stórherrum, audsynd stór Nád og Æra: Hann er og hinn fyrste af vorum Landsmønnum sem Amt-mans Embætte hefur vered tiltrúad; þienade Hann so med Sóma, Heid-re, og sovel yfirbodenna, sem Undergiefenna Aanægiu i fyrsøgdum Em-bættum, alls 38 Aar.

1764 var Hønum af Hanns Kongl. Majt. i Amtmans Embæt-tenu adjungeradur, med Succession efter Hanns Dag, Hanns Dóttur-madur Hr. Olafur Stephanoson, sem syner bæde i hvilíku Agte og Anseelse Hann hefur vered hiá Hanns Majt., og ødrum háum Herrum utanlands, sem og ad Hann hefur Embættenu so vel fyrerstaded, ad Hanns Majt. þóknadest heldur ad betrua þad innfæddum, efter Hanns Tijd, enn framande, sem um þad sóktu forgiefens. Auk þessara háu Embætta blessade Gud Hann 1.) med Giftumále þeirrar Hádæla Vel-byrdigu og Stórdygdaudugu, nu hiá Gude Sálugu, Frú Þórunnar Gudmunds Dóttur 1732, þá verande ad ættum og øllum Kvenn-dygdum medal hinna ansielegustu Jomfrua hier á Lande. Þeirra Brud-kaup skiede ad Stafholte á Vitiunar-Hátijd Mariæ. Hiónaband þes-sara Velbyrdigu Hióna blessade Gud, 2.) 1733, med ungre Dóttur, er hlaut H. Skírn, og lifde 6 Daga þarefter. Aftur Aarenu sijdar, Nóttena mille þess 13da og 14da Novbr. gaf Gud þeim adra, enn nu lifande Dóttur, med sama Nafne og hina, nefni-lega Sigride, nú verande Amtmanns Hr. Olafs Stephans-sonar Fru Kiærustu. Þaug lifdu so i Kiærleiksfullum Egtaskap, á Stóra-Núpe, Brædratúngu, og Leirá, allt þartil þaug i Aar þann

16da

16da Junii flutte sig hingad ad Kongsgardenum Bessastødum, i rúm 34 Aar, þá Gude þóknadest til sinnar Eilifu dyrdar ad kalla, næstlidenn 9da Augusti, Sal. Hr. Amtmansens Hárdla Frú, hvad Honum ad vísu gierde stóra Hiarta-Sorg, enn Hann huggade sig alltíd þarvid, ad þeirra Munde ei verda lángur Skilnadur, sem Gud og liet framkomma, búande sig so daglega vid sinum Vidskilnade, enn bad Gud at ráda Stundenne, Já, ad hanns Vilie þari, sem øllu ødru verda mætte, sem var Hans iduglegt Ordatiltæke. 3.) Blessade Gud Hann med likamlegre Audlegd, vid hveria Hann aldrei feste sitt Hiarta, þvi Hann var fri fyrer Aagirnd og allre Ásælne, viliande alltíd heldur sinn enn annara Skada.

Ad giefa eina fullkomna Afmálan yfer þessa Sáluga Herra Dygder, Gáfur, og Mannkoste, sem Gud hafde til Hanns lagt, leifer ei Tímans Naumleike, enn þad øllum var kunnugt, er til Hans þektu, er þetta sierdeiles: Hann var madur Gudhræddur, Riettvís, Fridsamur, Medaumkunarsamur, Litelátur, Trufastur, Ørlátur.

Gudhræddur var Hann af Hiarta, þvi fyrer utann þad, ad Hann aldrei forsómade, ad heyra, lesa, og lesa láta, Guds Ord i Kyrkium og Heima-Husum, idkade Hann daglega Bænrækne og Aakall til sins Guds, standande so aldrei upp af sinne Sæng á Morgnana, edur leggiande sig so til Svefns á Kvølldenu, ad Hann befalade sig ei i sinum Skapara. Hann hiellt sinum Underhafandi til sannrar Gudrækne, gángande undann þeim i þvi og ødru, sem god Fyrermindan. Hann elskade og vyrdte sina Sálusorgara, snart øllum framar. J einu Orde, Hann ástundade eitt Christelegt, og Gudrækelegt Lifernie, fulltrúa um þad, ad Gud munde sig aldrei yfergefa, sem einnenn fyrr og sídar á Honum sannadest.

Riettvís var Hann, hvar uppá þienar til Bevísingar, ad alla sina Lagmanns Tíd, dæmde Hann aldrei þann Dóm, sem af ædre Rettum

var rosinn. Somu Riettvíse brukade Hann i sinum háu Embættes Utriettingum alla þá Tíd Hann var Amtmadur, og annars vid ein og sierhvern utann Embættanna. Hann var ei einasta riettvís siálfur, heldur og hatade annara óriettindi. Hvad so vídt giek, ad þá Hann sá, edur tilvisse, ad einhverier hefdust óriet vid, jafnvel i Gamne, sagde Hann: Þetta eiged þid ei ad giøra, þvi Orietturenn, þo Lítell sie, er aldrei utan Liótur og ósæmelegur, og sá sem venur sig á ad giøra Oriett i þvi minna, kann af þeim Vana ad æfa Hann i þvi meira. Vegna þessarar Hanns alþecktrar Riettvíse, og þarhiá Lærdóms og hárra Vitsmuna, sóktu marger Rád til Hanns i þeim Vandasømustu og viktugustu Tilfellum, sem þeim komu alltid ad gódu gagne. Hans Riettvíse, Lærdóme og Skynseme, var samfara mikell Skarpleike, og Gáfur, er Gud hafde giefed Hønum, til ad grípa fliótt og riett eina Søk, og siá fyrer Enda á Henne, þvi Hann hafde þvilíkt Høfud er rart skal vera ad finna.

Fridsamur var Hann, þvi þótt Hann være Stiórusamur, hvad Hans Embætte utheimte, vilde Hann heldur med Hógværd og Lempne, enn med þvingun, fá einn og sierhvern ad giøra Skyldu sina, og hvad rett var. Giørde og nockur á Hanns Hluta, tilgaf Han þad æsenlega, strax sem þess var leitad, og mátte nie vilde aldrei heira nefnt sídann.

Medaumkunarsamur var Hann, ei einasta vid Eckiur, og Fødur- og Módurlaus Børn, heldur og vid veika og fátæka, hveriun Hann braut sitt Brand, og stórum Gott giørde.

Litelátur var Hann, þvi þótt Gud sette Hann til hinna hædstu Metorda, og lete Hønum alt ad óskum gánga, so Han var af øllum álitenn hinn meste Lánsmadur, ofmetnadest Hann ei þarvid, heldur þackade Gude fyrer þad alt, og þekte fyrer Hanns Verk, hafande stakann Vidbiód á Hofmód og Drambseme, er Hann hielt fyrer Dáruskap, enn

eckert

eckert Skynsemdar-Merke. Þesser Hanns Þánkar giørdu þad, ad Hann kunne bæde riettelega ad medtaka Guds Gáfur, og med þær hendla, so af Honum mátte læra, hverjenn eim átte ad skicka sier i sinne Lucku.

Trufastur var Hann, hvad þvi framar kann med Sanne umm Hann segiast, sem margur má játa ad Hann var ei einasta Vinur Vina sinna, þá vel geck, heldur þá þeim lá á, og Vinskapenn var helst ad marka.

Ørlátur var Hann, hvad aller þeir meiga játa, er voru i Hanns Þienustu, hverium Hann kom til Menningar med Rádum og Dád. Játa meiga þad Hanns Fósturbørn, sem bera Hanns Meniar, soleinge þaug lifa, hver Hann ei einasta uppól, og kom til þess frama, sem Gud og Luckann vilde giefa þeim, heldur þar ad auke gaf þeim stór-ar giafer, af fostu og lausu gótse, þá frá Honum giftust, og settu Fætur under sitt eiged Bu. Játa mættu þad þeir er lidu hastarlega stóran Skada, hverium Hann gaf bæde fliótt og høfdinglega. Játa meiga þad fátæker, hverium Hann, sem ádur er sagt, sist gleymde.

Auk þessa var Hann i vidmóti og Umgeingne, vid meire háttar sem minne, hinn yndeslegaste og þægelegaste. Hægferdugheit, og Giedsmuna-anna einstøk Tempran, utrymde alle Reidegirne og Øfuglynde, bæde á Mannamótum og Hans eigenn Heimile, hvar Hann altid finde sig vid-feldenn og gódgladann. Allt þetta orsakade, ad Hann af øllum gódum Mønnum, hærre og lægre stiettur, var háttagtadur, virdtur, og elskadur.

Hvad Hanns Lifs Endalykt, og Vidskilnade vid þennann Heim vidvíkur, þá fann Hann næstlidenn 2 Aar þverra bæde sína Heilsu og Líkamanns Krafta, enn serdeiles fór hvortveggia fyrer Alvoru hnignande á

þessu

þessu næstlidna Sumre, þvi i Maji Mánude mátte Hann fyrst, vegna Siukdóms og Kránkleika, halda vid Sængena hálfa adra Viku. Þarefter á Alþinge i Julio hálfann Mánud, sidann i Augusto Viku, enn vard fyrer Guds Hiálp og góð Medæl fra Land-Physico Biarna Poulsesine alltid so styrktur, ad aftur komst til fótaferdar, náde sier þó aldrei efter sina Alþinges Legu, hvar ofaná bættest Sorg og Saknadur efter Hanns Sal. Fru.

Þann 31ta Octobr. kiende Hann Hofud- og Bak-Verkiar, var þó á ferle þann Dag til Kvelds, og heirde lestur þrettan 51u Gerhardi Hugvekiu, sem handlar um, hvernenn madur skule i Andlátenu styrkia tru sina utaf Ihugan Christi Elsku, sinnar mannlegu Kyne, under hverium Hann sat med sidvanalegre Andagt og Efterlekt, lagde sig sidann med veniulegre hvers Kvelds bænagiörd, og svaf óveniulega leinge fram efter næstkomande deige, sem var Allra-Heilagra Messa. Ad álidnum deige vaknade Hann, qvartade um Hofud-Þyngsle og Bakverk, af hverium Han var so þungt haldenn, ad odruhveriu fornamst til Ringls edur Hofud-óra, enn þess á mille var Hann med gódu Forstande, var Hann þá studdur ofann, medann umm Hann var bued, enn so snart Hann var aftur uppi Sængena komen, las Hann hátt sinar veniulegar Bæner; Item eina af Biskups Widalins utlogdu Andláts Bænum; þarefter, þá komenn var Hátta-Time, liet Hann Þienara sinn hiá sier sitia, og lesa margar gódar Bæner, framm efter allre Nóttene, eina efter adra, hveriar Hann siálfur tilnefnde. Þetta sama Kvelld sende Hr. Amtmadurinn Olafur Stephansson og skrifade efter Land-Physico, sem vegna óvedurs um Nóttena vard ei sóktur, enn kom strax snemma ad næsta Morgne, hver á allann uppþeinkianlegann hátt leitadest vid ad inngiefa Honum, og útvortes ad applicera þaug Medicament, er Hann meinte hentugst vera,

enn

ellt gat þó strax til, ad þaug munde lited verka, þar allar Sál. Amtmannsens Lifskraftar være farner ad riena, og Hans Andláts Stundar munde ei so laungt ad bída. Ad endadre H. Embættesgiørd ad Bessastødum þennann Dag, kom Velæruverdugiir Prófasturenn Sr. Gudlaugur Þorgeirsson inn til Hans, og talade fyrer Hønum af Guds Orde, þad einum, sem liggur fyrer Daudanum, kunne til Hugbreisse, Trúarstyrkingar, og Underbuinings eins Sáluhiálplegs Andláts, helst ad þiena, bæde af Skristenne og andrikum Psálmum og Bænum, er Hann bæde saung og las hiá Hønum, og liet lesa og syngia allann Dagenn, Nóttena, og alt frammunder Hanns Andlát, hveriu Hann ei alleina eftertók, og i liósseliet sitt ørugt traust til Guds Adstodar um sína Sáluhiálp, heldur bæde undertók þad med var fared, og beidde siálfur ad syngia hiá sier þessa Psálma: O! Jesu Nafn þitt ilmsætt er 2c. Jesu þín Minning miøg sæt er 2c. Liknarfullur Gud og gødur 2c. Þarhiá beidde Gud fyrer sier og sinnum, mælandi fram þesse Vers: Vak þu minn Jesu, vak þu i mier 2c. Eg fel i sierhvert sinn. Allra sídast þá á eg hier. Kom þu minn Jesu, kom til mín. Hveitekorn þektu þitt. Þegar lided var ad Kvølde þessa Dags, qvøddu Hann Hans Dótturmadur, Dótter, og Dótturbørn, hver øll Hann bad gódann Gud ad blessa og vardveita, háfande þarefter margost yfer þetta Vers: Haf þu Jesu mig i minne. Item: Aastkiæra þá eg eptersskil. Þyngde so Siukdómnum meir og meir, efter sem leid á Nóttena, hvetiu alla utigiegn var lesed og sunged hiá Hønum, sem ádur er sagt, samt ibuglega, þá mál og Ræna merktest, talad vid Hann huggunarrikt Guds Ord af Prófastenum, sem ásamt Hr. Land-Physico vakte hiá Hønum, samt fleire adrer, er gløddust yfer ad heira, hvad truar- og vongódur Hann var. Þaug sídustu Ord sem skildust og til Hanns heirdust,


dust,

hust, vorn þesse; Jesu! hiálpa þu mier. Leiste so Gud Hann frá þessum Heime med hinu allra hægasta Andláte, þann 3ia Hujus, Kl. 10 um Formiddagenn, á Hanns 63ia Alldurs Aare, edur Anno climacterico magno, á hveriu margt Stórmenne burtkallast hefur. Hann þiónade Gude alla sina Lifdaga, Hann var sinu Fødurlande til stadstu Æru, Hanns Nafns Minning varer medann Landed byggest. Lofadur vere Gud sem gaf Hann, og sem fyrer Sáluhiálplegann Dauda tók Hann til sin aftur.

# Æfi
## Sal. Frur
# Þorunnar Gudmundsdottur.

Hun er fædd i þennann Heim ad Aalftanese i Myra Syslu, þan 18da Julii 1693, og efter medtekna H. Skíru af Sr. Andune Benedictssyne, þá Preste samastadar, uppólst Hun i øllum Kvennlegum Dygdum og Mannkostum i sinna Foreldra Husum til 24da Aldurs Aars, þá Gud Aarenu ádur hafde burtkallad Hennar Sal. Fødur, og sidann Sal. Systur Christinu Gudmundsdóttur, veik Hun efter Módur sinnar Tilsøgn ad Stafholte, hvar Hun uppól sin 4 módurlausu Systurbørn, alt þartil Gude þóknadest ad láta Hana inngánga H. Hiónaband med

þá

þá verandi Lögmanne, nú Amtmanne, Hr. Magnuse Gislasyne, sem skede ad Stafholte 1732. á Vitiunar-Hátíd Mariæ.

Þeirra Hiónaband blessade Gud med ingre Döttur, þann 4da Octobr: 1733, er hlaut H. Skirn, og lifde 6 Daga þarefter. Astur Arenu sidar, Nóttena millum 13da og 14da Novembr. gaf Gud þeim adra, enn nú lifande Döttur, med sama Nafne og hina, nefnelega Fru Sigrídr, Hr. adsúngerads Amtmans Stephanssonar Egta-Husfru. Þaug lifdu so i Kiærleiksfullum Egtaskap á Stóra-Nupe, Brædratungu og Leyrá, alt þartil Þaug a þessu Aari þann 16da Junii fluttu sig hingad ad Kongsgardenum Bessastödum, i rúm 34 Aar.

Hvad Hennar lifnade vidvíkur, þá var Hun af öllum, sem til Hennar þektu, hallden Kvennval. Hún var Gudhrædd, hæglát, Merk i Ordum og Giördum, og reksamleg i allre sinne Handteran vid þá underhafande, enn sierdeiles var Hun gódgiördasöm vid fátæka og naudstadde, bæde i þeim hördu og lettu Aarum, so Hun liet eingvann, sem til Hennar leitade, frá ser synjande fara. Hun var nátturlega örlát, og prydd med þeim Dygdum og Mannkostum, sem Gude þóknast ad pryda sin Börn med, er hann vill ad skule vera sem gód Fyrermyndan sins Fólks, so Hun sat verduglega i þvi Sæte, sem Gud hafde Henne skipad. Hann leidde hana og igiegnum þessa Veröld sem sitt óskabarn. Hun var hiartanlega ástudleg og elskuleg vid sinn Egta Herra, og i öllu stundade Hann sem sig siálfa. Elskuleg i Vidmóte og Umgeingne vid adkomande og underhafande.

Hvad Hennar Lifs Endalykt vidvíkur, þá formerkte Hun sina Hel-Sótt á Mánudagenn, þann 28da Julii næstlidna, þá Hennar Egta-Herra lá sóttsiukur á Alþinge, hver, þá hann var heim komenn, sende til Land-Physicum, sem Hennar hafde ádur vitiad, efter Læknesmedöl-

um, enn sú Sál. Fru gat þaug ei brúkad, nema ad litlu. Sende þvi Hennar Herra Kiærasste ad nyu til Lands-Physicum, sem styrkti Hana med þvi Hun gat móttekid, og syndest þá leidast til Heilsubótar, þvi Hun sagde ad Síduverkurenn, af hveriumm Hun var þvingud, hefde sig forláted, so Land-Physicus reiste burt. Þremur Døgum þarefter syndest Veikleikenn snúa sier á annann Hátt, nefnalega til so kalladrar Landfarsóttar; hvarfyrer ad nyu var sendt efter Land-Physico, sem bæde med Rádum og Dádum vilde leitast vid ad lækna Veikleikann. Enn Hun siálf liet sier mest ant um vera, ad fá læknad sin Sálar Sár, og þessvegna i Prófastsens Sr. Gudlaugs Þorgeirssonar Fiærveru, beiddest þann 8da Augusti, ad mega verda hluttakande Holds og Blóds Herrans Vors Jesu Christi, hvert Presturenn Sr. Þorsteinn Sveinbiørnsson henne utdeilde sidla umm Dagenn, mót Hennar so skírre og hárre Játun Syndanna, sem hartnærre ósiúk vered hefde. Allann þann Tíma sem almáttugum Gude þóknadest ad leggia hana under Krossens Lina andvarpade Hun hiartanlega til Drottens, befalande sig og alla sína Hanns fødurlegre Forsión; Enn sierilage beidde Hun miskunsamann Gud ad vernda og blessa sín ungu Dótturbørn, er Hun so heitt elskade, og á Føstudags Kvølded kyste þau og qvadde med sínum sidasta ástudlega Módur-Kosse; Gaf sig so med Lífe og Sálu aldunges á Guds Vald, og beid med stakre þolenmæde efter sínum sídasta Vidskilnadar Tíma. Hun hefde jafnadarlega Guds Ord um Hønd i þessum sínum Siúkdóme, bæde greiner úr þeirre H. Ritningu, andrík Vers og Andvarpaner, og bad med Tollheimtumanninum: Gud vertu mier Syndugre líknsamur; med þeim 10 Líkþráu: Jesu góde meistare, miskuna þu mier. Med Psálma Skáldenu: So margt eg syndgad hefe. Andlát þitt Jesu og þín Pín. Vil eg nu feigeinn fara til þín, og annad fleira, sem

hier

hier er ofsángt upp ad telja. Kvølldenu ádur enn Gude þóknadest ad kalla hana frá þessu Lífe til þess Eilífa, hierum 3 Tímum efter þad Hun hafde medteked Christi Líkama og Blód, spurde Hun ad hvad Kluckann være, hvartil Henne var svarad: ad Kluckann være 9, las Hun þá þetta Vers til Enda: Sídasta Nótt þá sigur ad. Já, Hennar sídustu Ord i þessum Heime, efter ad Hun hafde á Laugardagsmorgunenn, þá Kluckann var 4½, litla Stund uppe seted, og vilde hafa lagt sig utaf, voru þesse: Jesus Christus medtaktu mína Sálu til eilífs lífs, og i þvi sama uppgaf sinn Anda, deyande so med sinn Jesum i Hiartanu og Munnenum, umfadmadann med sterkum Bænar, og Trúar Ørmum, i Vidurvist Hennar nu sárt harmande Kiærasta og Fru Dóttur, samt Hr. Amtmans Stephanssonar, Land-Physici, og annara nærverande Lofadur vere Gud sem hana gaf, og hana aftur til sín tók, á 73 Aldurs Aare, med so veglegu Aalite og Mannorde sem nu er sagt. Hann giefe oss øllum þeirrar Stundar ad bída sem Hønum þóknast, so ad hvert sem Vier lifum edur deyum, þá mættum vier verda Guds, fyrer Jesum Christum.

Hennar efterþreyande og sárt harmande Kiæraste, Amtmadurenn Hr. Magnus Gislason, lætur hiermed innelegast og hiartanl. þacka sínum Hæddla Dótturmanne, og Hanns Fru Kiærustu, fyrer þeirra, Hanns Sálugu Fru veitta nákvæma Aþhiukrun i Hennar Helsótt, umbidiande þann almáttuga Gud ad rietta bádum þeim sína miskunarríku Hiálparhønd, einkanlegast þegar þeim mest áliggur. Þarnæst þackar Hr. Amtmadurenn þeim til Líkfylgdarennar innbodnu Giestum, ástsamlegast og þienustuskyldugast, nefnelega: Hanns Hæddla Hæruverdugheitum Hr. Biskupenum þessa Stiftes, samt øllum ødrum Veledla, Edla, og Æruverdugum hier nærverande Herrum og gódum Vinum, fyrer sinnar Sal. Frur Kiærustu Moldun audsínda Æruveisingu med

 þeirra

þeirra Nálægd, óskande ad gódur Gud vilie unna øllum þeim eins lángæds og luckulegs Lífs i þessum Heime, enn ad þvi lidnu leida þá inni þad Eilífa, hvar þeir med þeim undanførnu, sínum og þeirra Aastvinum fáe saman ad búa æfenlegá.

# Ættartala
## Sal. Hr. Amtmansens
# Magnusar Gíslasonar.

Hanns Fader var sá gøfuge Høfdingsmann Gisle Sál. Jónsson, 1 Aar Conrector Skálholts Skóla, sem fyrst bió ad Reykhólum, sídann ad Mávahlíd. Hanns Fader var Mag. Jón Vigfusson, Biskup yfer Hóla Stifte. Hanns Fader Vigfus studeradi vid Kaupenhafnar Háskóla, og var á þeim dögdum kalladur hinn lærdaste Madur, so Hann forþenade Skólameistara-Embætte i bádum Landsens Skólum, fyrst ad Skálholte og sídann ad Hólum, og so miked Nafn hafde Hanns Lærdómur Hønum afrekad, ad Hann, ungur og ógifdur Madur, sá ei hafde enn þiónad Presta-Embætte, var i Biskups-Kiørenu 1631. Enn skømmu þarefter vard Hann Sýslumadur bæde i Arness- og Rángárvallna Sýslum. Móder Mag. Jóns Vigfussonar var Katrin Dótter Erlends Asmundssonar á Hvole, enn Móder Katrinar var Sølvor,

Dótter

Dótter Stephans Prests ad Odda, Sonar Gisla Jónssonar, Biskups i Skálhollte. Fader Vigfusar Gislasonar var sá Nafnfræge Hefdinge Gisle Hákonarson, Lögmadur Sunnann og Austann, og um nockra Stund Syslumadur i ádurtiedum Syslum. Kona Gisla Lögmanns, enn Móder Vigfusar, var Helga, Dótter Sr. Jóns Krákssonar, Prests ad Gordum á Aalftanese, Hálfbródurs Hr. Gudbrands Biskups Þorlákssonar. Enn Fader Gisla Lögmanns var Hákon, Syslumadur i Rángár-Þinge; Hanns Kona var Þorbiørg, Dótter Vigfúsar Þorsteinssonar, og Onnu Ejólfsdóttur, Einarssonar, Ejólfssonar Lögmanns; enn Móder Onnu var Helga, Dótter Jóns Biskups Arasonar. Fader Hákonar var Aarne Gislason, ættsælaste og nafnfrægaste Madur, ei einasta i sinne Tíd, helldur og einnin sídar; Enn Kona Aarna Gislasonar var Gudrun, Dótter Sæmundar Eirikssonar, og Gudridar Vigfus Dóttur ad Hlydarenda. Móder Gisla Sál. Jónssonar, var Sál. Fru Gudridur Þórdardótter, hverrar Fader vár sá nafnfræge lærde Madur Sr. Þórdur Jónsson, Prestur i Hytardal; Enn Hanns Fader var Sr. Jón Gudmundsson, einninn Prestur i Hytardal, og leinge Prófastur yfer ollu Þverár Þinge. Móder Sál. Hustrur Gudridar Þórdardóttur var Helga, Dótter Aarna Lögmanns Oddssonar Biskups ad Skálholte. Kvinna Aarna Oddssonar var Þórdis, Dótter Jóns Bónda á Holltastødum; enn Móder Aarna var Helga Dótter Jóns Bónda á Grund i Eyafyrde, Biørnssonar, Prests ad Melstad, Prófasts, Officialis, og um stund áhóta ad Þingeyrum, Jónssonar Biskups Arasonar. Móder Jóns Biørnssonar var Steinunn, Dótter Jóns Magnussonar á Svalbarde; Enn Kona Jóns, var Gudrun, Dótter Aarna Bónda Gislasonar á Hlydarenda; Enn Móder Sr. Þórdar Jónssonar, var Gud-

ridur

ridur Gisladótter Løgmanns, Þórdarsonar, og so Løgmanns, enn Móder Gudridar var Ingebiørg, Dótter Aarna Gislasonar á Hlydarenda.

Móder Sál. Amtmannsens Magnusar Gislasonar var Margret, Dótter Magnusar Jónssonar, Løgmanns Nordann og Vestann, samt Syslumanns i Snæfells- og Stranda-Syslum. Hanns Fader var Jón Bónde, sem fyrst bió á Reikhólum, enn sídann á Midhusum; Fader Jóns var Magnus, Syslumadur á Vestfiørdum, Sonur Ara, er yfer 50 Aar bió i Øgre vid Isafiørd, og var Syslumadur i Isafiardar- og Stranda-Syslum. Fader Ara var Magnus Syslumadur, fyrst i Nordur-Syslu, og sídann á Vestfiørdum; Sonur Jóns Bónda á Svalbarde Magnussonar, Þorkelssonar Prests, Gudbiartssonar. Móder Ara Magnussonar var Ragnheidur, Dótter Eggerts Løgmanns, Hyrdstióra hier á Lande, og Riddara, Sonar Hannesar Eggertssonar, og so Riddara; Enn Móder Eggerts Løgmanns var Gudrun, Dótter þess nafnfræga Biørns Gudnasonar i Øgre. Kona Ara Magnussonar var Christin, Dótter Gudbrands Biskups á Hólum, og Gudrunar Aarnadóttur frá Hlydarenda. Kona Jóns Magnussonar var Jórunn, Dótter Magnusar Løgmanns, og Syslumanns i Eyafyrde, samt Munkaþverár Klausturhalldara. Fader þessa velnefnda Løgmanns var Biørn Benedictsson, Klausturhalldare á Munkaþverá, og Syslumadur i Eyafyrde. Enn Móder Magnusar Løgmanns var Elin, Dótter Páls Syslumanns i Stranda-Syslu, sem bió lengstum á Stádarhóle, hvers Kvinna var Helga, Dótter Ara Løgmanns Jónssonar, og Halldoru Þorleifsdóttur frá Mødruvøllum. Móder Margretar Sál. Magnusdóttur var Gudrun, Dótter Þorgils Bónda á Vøllum, Jónssonar, Nefndar-

Manns

Manns i Þórness-Þinge, hvers Egta-Kvinna var Ragneidur Gisla-dótter, Syster Biørns Gislasonar i Bæ i Borgarfyrde; Gisla var Refsidarmadur i Þórness-Þinge, enn hanns Fader var Prestur ad Hrafnagile, og nockurn tíma Officialis; þesse Sr. Biørn var Gislason, Bróder Arna á Hlydarenda, og Gunnars Gislasonar.

---

# Ættartala
## Sal. Frur
# Þorunnar Gudmundsdottur.

---

Fader Hennar var sá gódfræge Høfdingsmann Gudmundur Sál. Sigurdsson, sem fyrst bió i Sólheimatungu, enn sidann á Alstanese innann Myra-Syslu. Hans Fader var sá stórfræge Høfdinge Sigurdur Jónsson, sem fyrst bió á Laugarbrecku, so leinge Hann var Syslumadur i Snæfellsnes-Syslu, og Arnarstapa Ummbodshaldare, enn sidann tók Hann alla Borgarfiardar-Syslu, bæde Sunnan og Vestann Hvítár, og bió þá i Einarsnese; ad lyktum vard Hann Løgmadur Sunnann og Austan á Islande, hvorin Embætte Hann þenade med so stóru Vandlæte og Vyrding, sem fáer giort hafa. Hans Fader var Jón Sigurdsson, komenn af gøfugu Foreldre. Hann bió i Einarsnese og var Syslumadur yfer øllum Borgarfirde.

Móder Gudmundar Sál. Sigurdssonar var Christin, so jafnfræg i sinu Stande, sem Hennar Egtamake i sinu. Hún var Dótter Sr. Jóns i Hytardál, leinge Prests og Prófasts yfer allre Borgarfiardar-Syslu, hinns lærdasta og nafnfrægasta Manns i geistlegre Stiett á þeim ølldum; Enn Sr. Jón var Sonur þess mikla Roksemdar- og Skynsemdar Manns Gudmundar Jónssonar á Hvole i Saurbæ. Móder Christinar var Gudridur, Dótter Gisla Løgmans Þórdarsonar, og so Løgmans Sunnann og Austann á Islande; Enn Móder Gudridar


var

var Ingebiørg Aarnadótter, Gislasonar frá Hlydarenda. Móder Hennar var Gudrun Sæmundardótter, hvör Ætt er so gøfug og nafnfræg, ad Hana má rekia frammepter øllumølldum i marga Lidu.

Móder Sál. Frur Þórunnar Gudmundsdótter var þad sier-lega gódkvende Gudrun, Dótter Eggerts á Skarde, Sysslumanns i i Bardastrandar Sysslu. Fader Eggets var Biørn Magnusson, er leinge bió i Bæ á Raudasande, og var Sysslumadur i Bardastrandar Sysslu, hvörs Fader var sá nafnfræge lærde og vitre Madur Magnus Jónsson, fyrst Sysslumadur yfer Þingejar-Þinge, enn sidann yfer øllu Þorskafiardar-Þinge, hvörs Fader var Jón á Svalbarde Magnusson, Þorkellssonar, Gudhiartssonar; hvör Þorkell var á fyrre ølldum Prestur ad Lausáse, og nú Officialis, nú Rádsmadur Hóla-Stóls og Stiftes. Móder Eggerts var Sigridur, Dótter Dada Biørnssonar á Skarde. Móder Biørns Magnussonar var Ragneidur, Dótter Eggerts Løgmanns og Hyrdstióra her á Lande Hannessonar Riddara og Hyrdstióra Eggertssonar, Løgmanns i Vikenne i Norege. Enn Móder Eggerts Hyrdstióra var Gudrun, Dótter Biørns Gudnasoner i Øxre.

Módurmóder Frur Þórunnar var Valgerdur, Dótter Gisla Løgmanns Hákonarsonar, Sysslumanns i Rángar-Þinge, Arnasonar á Hlydarenda, Gislasonar Gunnarssonar. Kona Gisla Løgmanns var Helga, Dótter Sr. Jóns Kráksonar, Prests ad Gørdum á Akranese, Hálfbródur Biskups Hr. Gudbrands á Hólum. Enn Móder Gisla var Þorbiørg, Dóttur Vigfusa Bonda Þorsteinssonar og Aunnu Ejólfsdóttur, Einarssonar Ejólfssonar Løgmanns; enn Móder Aunnu var Helga, Dótter Jóns Biskups Arasonar á Hólum.

Af þessu, so líted sem þad er, og so skamt sem er fared frammepter þessum gøfuga Ættboga, má siá ad Sál. Fru Þórun Gudmundsdótter var komenn af þeim gøfugustu og bestu Ættum hier i Lande, enn skyldu menn rekia þær leingra frammepter ølldunum, hvad audveldt er, vegna þeirra Frægdar og Høfdingskapar, þá vilde fyrr þrióta Tímann enn Efned.

# PROSOPOPOEIA PATRIÆ

yfer afgánge

Þess Agiæta Landshöfdingia

## Há-Edla og Velborna

nu Vélsaliga Herra

# Magnusar Gislasonar,

Kongl. Majest. Amtmanns yfer Islande,

Hver fyrstur allra sinna Landa hefur þad Ærusæte klædt, epter ad Hann leingi og loflega hafde þienad Lögmanns og Landþingsskrifara Embættum hier á Landi.

I Sorgar-Liódum frammflutt

af

**Sveine Sölvasyne**

Lögmanne Nordann og Vestann a Islande.

Há-Edla og Velbornum

# Herra Olafe Stephanssyne,

Kongel. Majest. hátt-tiltruudum Amtmanne yfer Islande,

Samt

Há-Edla og Velborinne

# Fru Sigride Magnusdottur,

Amtmannsdottur, Amtmannsinnu.

Enn þó eg vita meige margur smallare mier mune á undann geinginn hina somu leid sem eg nu fer; helld eg samt betra ad vera med þeim hinn minnste og sidarste, enn verda med ollu epter; Einkum þar fiärlægdinn gat ei unnt mier þeirrar æru, ad giøra vorum góda, nu vel Sal. Herra Amtmanne þa sydurstu þienustu i eigin persónu, mátte eg þó hier med audsyna minn vilia og hugarfar, ad so miklu leite sem eg kunne, þótt ecke nær sem byriade. Þvi ad framtelia hier hans Lijfsøgu, persónulegar dygder, gódgierder og annann slykann høfdingskap, vyrdist mier ad nockru leite kunna utleggiast fyrer Inngrip i Embætti þess, sem slijkur ærupostur hlotnadest, og med rettu tilheirde, hvør eg vil trúa allvel hafe leist sína skyldu. Og er so med þessum fáu Versum ecke framar meint, enn láta i lióse med voru Publico (af hveriu eg vilde finnast einn sannur limur) makligann Samsøknud, epter so ágiætann Høfdingia sem vier høfum látid. Hefda eg annars ætlad mier ad kveda um hann nockurn Lof-brag, skylde

mitt

mitt Thema hafa vered þetta: ad hann hafe vered sá hinn rette madur fyrer sitt Land, enn þad ecke (so lánglega) bid veita fyrer hann, hvad eg vel kunne smiðjulaust ad hafa leidt fyrer sióner.

Min Vers eru bæde færre og styttre, en þau kunne láta sig dedicera: alleina bid eg minn Há-Ædla Hr. Amtmann og Velborna Fru, ad láta Þeim ei misþóknast mina dierflega hyrvekt, og leisa þau mættu fylgia med siálfre Parentationenne undir pressunne.

# PROSOPOPOEIA PATRIÆ.

1.

Má eg Olucku ei móte siá
munde ónád fá
ef hier uppreikna vilde,
allt þad mier hefur gmad mest: —
og er þvi best
i gleimsku bók skrifad skylde.
Miner Kóngar
margfaldlegar
veitt høfdu mier
virdta gjørder,
af sinne miúku milde.

2.

Aller sem høfdu af mier best
útlender mest,
mitt aúga áttu ad vera;
enn hvørsu høndlad var vid mig,
veit hvør um sig,
reikning fær rettann gera.
Eingann dæme eg,
enn Gud minn Veg
sijdar vill siá,
seige eg mig frá
þann Urskurd upp ad bera.

 3. Godur

3.

Módur sinn Fimte Fridrek var,
flest til vildar
af giæsku gede sijnde.
Þó er þad eitt sem ádur Hanns
Alvalda Manns
virdta velgiørder Kristjáns:
Mitt eigid blód
innlenda þjód,
þócknast liet Sier
enn þiena mier,
alldrei vild' eg því tinde.

4.

Nefna skal hier til Ødlung einn
innlendur Sveinn,
mannprijde mesta hente.
Magnus Gislason minn var sá,
mier lifde hiá
loflega og leinge þiente.
utvortis bar,
hid innra var
atgiørfe flest
ágiæte mest
er Náttúrann nockrum lieute.

5.

Ungur þá fyrst mier hann tók
Alþingis bók
skráde med skärstum hætte:
lifa mun enn þó lagd sie hönd
líks undir bönd;
Rettarins greina giætte.
Ogrased pund
gaf enn í mund
Ærunnar verd
yfirvalds Sverd
langa Løgmanns Embætte.

6.

Sást hier ei nockur fremre mann
Sudurstól þann
ad sitia á sømu døgum.
Dansker Løgmenn þó væru vel
vijst eg hann tel
framar ad flestum høgum.
Atte eg þess von
minn Einka Son
giæfest mier best
grundade flest
i Landsins rètte og løgum.

7. Gomul

7.

Gømul mun eg ef gleimast verk
so mørg og merk
sem epter Ædlann liggia,
enn hier, sem lifed efra senn
og yngre menn
opt meigid ad heim hyggia.
Fesiódur er
og frædakver
eins Viturs manns
vildarsta lands
þar med sitt brióst ad hyggia.

8.

Innlendann hefe eg Adal sted
og Norskur med
mægdist vid mina Syne.
þetta skal eitt mitt þroska par
og þadan var
Magnus af mesta Kyne.
hvorium var gleymt,
eda hefur mig dreymt?
Enn ef su Stiett
upp verdur riett
af vorum ædsta vine.

9.

Sú er min upphefd [illegible] fyrst
eg ødladist
af minu eiginn Gæde
frómann Hofdingia [illegible]
fyrer Amtmann,
margt þá i móte stædes
þvi Kóngsins Nád
feck þess vel gád,
mina innre raun
utvortis laun
fár so fullþeckia næde.

10.

[illegible] fær vera [illegible] þad [illegible]
er var mest vant,
afreka og endurbæta,
enn styrkia hier [illegible] á
og standast má:
óveniur upp ad ræta.
Sanna þad enn
skervitrer menn,
óþacklát børn
edur ófulld-giørn
ei munu þursa ad þræta.

11.

Allt hvørs og flekka enn vidþarf,
var stærra starf
enn eins manns lit ad retta:
Eptirkominum, og því tel
allskyldt, og fel
þá ad framkvæma þetta.
Ef hvør um sig,
aktar so mig
tijd epter tijd,
tækist um sijd
minne læging ad slétta.

12.

Velgiørdir eptir soddann Mann
sijst firnast kann,
hvørs minning mun ei deya;
hann lifer best þo dáenn sie,
á lifande
manna lands og meya.
Þeir sem i nauð
þágu hans braud
og margar hier
misskyndsemder
velkomenn vilia seigia.

13.

Oneyghlegt þad er til sanns
þess Ædla Manns
gódverk ef greina skylde;
setia má þó fyrer sierhvørn dag
i Heimsins hag
utbraut sig ein hans millde.
Þad skedur hinnst
þess verdur minnst,
og skrifad flest
er skartar best
uppá hanns Æruskilde.

14.

Nú þó eg syrge (og satt er þad)
sjá má eg hvad
til huggunar hann mier gerde,
þá sinn verdiga Sifla son
i sældar von
til Amtmans ut mier kerde.
Eg heite á þig:
hugadu um mig:
þins Fødurs spor
forusta vor
og þinn uppgángur verde.

Sam-

# Samkvæde Fødurlændenu golded.

Hver man harmi þinum,
hørd Táka giørdu bákna,
raun vard á ránar nordur
ranni dreir; annar meiri.
Sudar miklu saud Hekla,
Sót gaus of mót hausa,
glenis ad Kvendi, raums, rantu,
rigndi Sand, hnigndi Landi.

Bifrastar hof hristi,
hátt gall þrátt i Fialli
skaut fyri Skata vorum
Skips aldar svipkalda.

Alrauda Sól sídann
Sveit kring kit a þingi;
boda kann midlu minna
manntión sannad Fróni.

Grát Módir, Sút svfdi:
svart alldinn svart falda:
verdur er Virda Stióri
vorra sár þorra Tára.
Hald Mærings hold fyri
heiman-mund, geim þu undir
fái Líkblæiu bleika
hiart lín, hiarta þínu.

## Adgiætande.

Þo eg meine hvert Ord i Versunum so einfaldt og audskilid, ad einganu villa kunne; vil eg samt hafa bedid Lesarann gods fyrir ad eptersylgiande verdi ei illa utløgd.

4 Vers.) Innlendur Sveinn: Eg vil ei upptelia hvørsu þetta nafn gildir ymislega, enn hier a þad ad merkia epter fornum Kongabrefum.

5 V.) Langa-Løgmanns Embætte. Embættid er heil langt, og vel hid eldsta hier a Lande. So og ma þad laugt kallast i tillite til Personuuuar, sem þad hafde yfer 20 Aar, og hafa færri lengur Løgmenn vered.

6 V.) Sudurstol: Hier skilst under Løgstollinn, sosem altidt er i Møreg ad kalla Løgdæminn Løgstola.

13 V.) Hinnst: er tvillaust tekid af Pron. hinn. Superlat. hinnstur. brukast fyrer sydarstur.

14 V.) Sifiason: Sa sem veit hvad Sif, eda Sifiar er, þarf ecke leingi spyria hvad Sifiason skule þyda. Eg hefde annars kunnad bruka Svigerson, ef slikt transtatak i Dønskuna være ei af vorum Puristum aldeilis fordæmt.

# Magnusar Minning

Amtmanns yfer Islande

# Gislasonar,

I Sendebrefs forme, tilskrifud og send Frænda Hans, Dótturmanne
og Epterkomara i Embættinu,

## Herr Olafe Stephanssyne,

um Þess góda Sáluga Herra ypparligar
G=iptir Þ=rudmensku og S=ælu.

---

Melodie: *Rerum certa salus.*

### Forspiallo Lióð.

1.) Há Edla Herra Amtmann! Hofdinge fremstr ver
eiin heilsa eg ydur kann, aull liggia fús min Spór
til ydar hefdar Husa:
Dygdin ágæt mitt efter Þor.

2.) Qvad eg fagnande fyr, hvdiz Þad Sóttlaust mer,
gledinnar blidr byr bar mig svo hægt med ser:
Nu klinger aunnur klacka:
Magnus látinn Amptmadr er.

3.) Sok.

3.) Söknudr mesta Manns mig allan nidr slær,
fegursta Lióð vors Lands ad lidid finnum vær;
Það var Magnus Amtmadr,
ein fremstu Stærdar Stiarna skær.

4.) Svo vist sem vilda eg vegliga Minning Hans
á allan virda veg, verdr mer orda Stans:
Hver má i myrkre sliku
lisligan fremia lióda dans?

5.) Leika Fuglar og Fe, vær fagrt Sólskin er,
Hyliast í Hretvidre, hælis leitande ser:
Svo er i Sorg og Glede
um mál og huge manna her.

6.) Hveriuni skal telia og tiá Tormerki þvilik nu?
ydr ei angra má, ótæk er breytne sú.
Enn madr manne feger,
þeim allvel treyster, allt i trú.

7.) Ad tala um Söknud sinn, og Söknud annars med,
dæmi þess frid eg finn, það friskar sturlad ged;
þó slikt ei mæla megi
um litilsiorlig Lióð sem kved.

8.) Veit eg Hugprydin há, og heilög christin Trú,
Söknud þann mykla má, sem mæder ydr nu:
Hann vill þá aptr venda,
Astriki fylger artin sú.

9.) Hvad nú um allt þad er, einkum þad skylldt eg finn,
ad leyna ei lengr ser, lysande Søknudinn:
Samlíding sá má bera,
Sem fyrr hafde Samfeknudinn.

10.) Mannslát hvert mikid er, meir enn Lamb falli eda Kid:
bestu Høfdingia her hvad má þá jafnast vid?
þad snerter ásamt alla,
þó nockrum þyki nærst høggvid.

11.) Helldr til annad enn: ásannast láta ber,
Þad Gud og góder menn gott hafa veitt ofs her:
Uppvakning einnig lika
gód dæmin jafnan gefa af ser.

## Gæfu Minning.

12.) Magnusar Minning þá mæt er á alla Lund,
Uppruna fyrstum frá: fæddr á Lucku Stund:
Gøfugt og gott Forelldri:
Happ var þad fyrsta á Heimsins Grund.

13.) Náttura næmis giørn, nettum Skapnade med,
Sem bestu vonar børn berande sáum sied;
þar epter Lund og Læte,
Sem dregr til Astar allra ged.

14.) Widalins fóstr fridr framgángs var mikel von;
Ungmennid elskar blidt ágætr Þorkelsson,
Samkvæman sínu gede,
Náskylldan sinne kærre Kvon.

15.) Utan sem innanlands ágætt feck menta safn,
ødladist ært til hans Alþingis-Skrifara nafn,
Løgmadr vel og lenge,
Hverium þeim fremstu halldinn jafn.

16.) Luckan var mikil med, og margfaulld allan tíd,
ávann ser allra ged, elskadr fyrr og síd,
Amtmadr sídan settr,
Yfervalld hædsta lands hiá Lyd.

17.) Ei má vera þess án, ad einnig minnumst ver
á gøfugt gæfu Lán Guds eitt hid fremsta her:
Kvonfáng sem best má kiósa,
veittist Hønum, þad viti þer.

18.) Sambud hin besta var, blessud og laung med þeim,
ákomid þótte þar fyrer þessum allvel tveim:
Svo urdu ad sídurstunne
nær samferda til Herrans heim.

19.) Hvad kærast heime i haufdu jafnt sinne Ønd,
rádstafad þecktu þvi, þad var i ydar hønd;
uppkomin Nøfn og Nidia,
þau yndissamlig ástar bønd.

20.) Gledelegt var þá vid Verølld ad skilia her,
og ganga Guds i Frid hautu þá christnum ber,
Sællra Lifdaga saddr,
eins og Simeon óskar ser.

9.) Hvad nú um allt þad er, einkum þad skylldt eg finn,
ad leyna ei lengr sér, lysande Søknudinn:
Samlíding sá má bera,
Sem fyrr hafde Samføknudinn.

10.) Mannslát hvert mikid er, meir enn Lamb falli eda Kid:
bestu Høfdingia her hvad má þá jafnast vid?
Þad snerter ásamt alla,
þó nockrum þyki nærst høggvid.

11.) Helldr til annad enn: ásannast láta ber,
Þad Gud og góder menn gott hafa veitt oss her:
Uppvakning einnig lika
góð dæmin jafnan gefa af ser.

## Gæfu Minning.

12.) Magnusar Minning þá mæt er á alla Lund,
Uppruna fyrstum frá: fæddr á Lucku Stund:
Gøfugt og gott Forelldri:
Happ var þad fyrsta á Heimsins Grund.

13.) Náttura nænis giørn, nettum Skapnade med,
Sem bestu vonar børn berande sáum sied;
Þar epter Lund og Læte,
Sem dregr til Astar allra ged.

14.) Widálins fósir fridr framgángs var mikel von;
Ungmennid elskar blidt ágætr Þorkelsson,
Samkvæman sinu gede,
Náskylldan sinne kærre Kvon.

15.) Utan

15.) Utan sem innanlands ágætt feck menta safn,
odladist ært til hans Alþingis-Skrifara nafn,
Lögmadr vel og lenge,
Hverium þeim fremstu halldinn jafn.

16.) Luckan var mikil med, og margfaulld allan tíd,
ávann ser allra ged, elskadr fyrr og síd,
Amtmadr sídan settr,
Yfervalld hædsta lands hiá Lyd.

17.) Ei má verá þess án, ad einnig minnumst ver
á gøfugt gæfu Lán Guds eitt hid fremsta her:
Kvonfáng sem best má kiósa,
veittist Hønum, þad viti þer.

18.) Sambud hin besta var, blessud og laung med þeim,
ákomid þótte þar fyrer þessum allvel tveim:
Svo urdu ad sídurstunne
nær samferda til Herrans heim.

19.) Hvad kærast heime i hausdu jafnt sinne Ønd,
rádstafad þecktu þvi, þad var i ydar hend;
uppkomin Nøfn og Nidia,
þau yndissamlig ástar bend.

20.) Gledelegt var þá vid Verølld ad skilia her,
og gaman Guds i Frid hantu þá christnum ber,
Sællra Lifdaga saddr,
eins og Simeon óskar ser.

Gáfu Minning.

21.) Gáfur þess mikla Manns mer voru ej kunnar rett,
þo seck eg séd til fullis, ad soddan hvad fell lett;
fiolhæfr, minnis merkr;
þá hausdum vissa af Hønum frett.

22.) Þvi saugdu og merker menn mer þar sannliga frá,
ad Lærdoms lesturenn legdi ser ecki hiá,
þá yngre uppfrædande:
Hlutina af sliku marka má.

23.) Embætti og Huss-Stiórn Hans hausum þess merke ver;
Fiolskyllda sá til sans syner hvor madrinn er;
Þad kostar meira enn minna,
þá mikid bæde og margt vel fer.

24.) Lettvigr Likaminn, lifande Hugskoted,
idulig árveknin, audru hvad fylgia red:
Sikt er Ysermanns ædi,
fær miklu gódu framkomed.

25.) Fleira vel fingast kann, ef framar væri þorf;
þeir sem gloggt þecktu Hann, þvilik Hans vissu Staurf:
enn eg mer helldr hlífe,
enn rett aflagi Rædan diorf.

26.) Þad eitt má segia satt, ad Systur þessar tvær,
Giptan og Gáfan bradt, sem gángast laungum fiær,
helldust þar æ i hendur
Hønum verande hvern dag nær.

Mann-

## Mannkosta Minning.

27.) Allt þetta fagrt er, enn fegre Dygdin þó;
einginn sig ødru her eins fridri Skarte bió:
Hitt, fyrer utan hana,
eydist sem fari i Elld og Sió.

28.) Magnusar Minning en merkilig verde þá,
nær gæfu og gáfum senn glanse Dygdernar hiá:
Þvi gott sem fylgist fleira,
þvi større reikna manninn má.

29.) Slikt allt ad telia og tiá, torvelldt, þad yrdi mer;
annars sem meira má Mælskunnar Kraptr her,
þótt vel kunnugr være,
mistreysta kanuske mætti ser.

30.) Þad var ey þánke minn, þad var Minningin ein,
ad kynni siást um sinn, sem hun fyrer mer skein.
Annad er mann sá mynda,
annad fullmálud Asynd hrein.

31.) Gódmenni mesta þá Magnus hver þeckia vann,
Sem heyrde, visse, sá: Sidprúdan, Högværann,
Orlátan jafnt vid alla,
Gestrisinn miøg og gladværann.

32.) Høfud-dygd Høfdingians heita má Rettvise,
temprud þó samt til sans med sannre gódsyse:
Þad vantade vist ecki;
allmargt hygg eg þad auglyse.

33.) Høf-

33 ) Hófseme Høfdingium helld eg ómissande,
ad veriest Vindryckium i vigtugu Embætte:
Þad má um Magnus segia,
ad flestum i sliku framtæke.

34.) Margt hnigr aullu ad, sem upp var talid nu,
enn allt uppfyller þad ágætust Dygdin sú:
Gott og Gudrækid Hiarta,
þess Vitnisburdar veit eg tru.

35.) Guds madr gódr einn, er Gledevøkru * sá,
gladde sig hugar hreinn, og her nærst giørde tiá:
Hefdir þu Hans gudrækne
vitad, hvad mundi meira þá?

36.) Dygdanna rettu Rót reynnum og finnum þar,
Serhvørra Bresta bót, ef Brestr nockr var:
Her komast hverge nærre
neinar Dygder Nátturunnar.

37.) Þad læt eg nægia nú, nú hætte eg gladr vid:
Kórónar christinn Tru Kost hvern og gódan Sid,
Svo fær ad sidurstunne
Lissins Kórónu Lambs hiá Hlid.

38.) Sæll madr Magnus var, miklu þó framar er,
Já þusund sinnum þar, þvi meir sem kunne her:
Allt stundlegt tekr enda,
enn eylif Dyrdin alldrei þver.

* Gratuleran til Amtm. Sal. M. G. 1757.

39.) Søk

